[Þess Íslendska Evangeliska Smábóka Félags Rit. No. 2.]

# Ein andlig Ræda
# um Náttúru Jesú Trúarbragda,
haldin opinberliga
á Sunnudaginn millum Jóla og Nýárs,
útaf þess Dags Evangelio
hjá Luc. 2, 33—40.

af Jóni Jónssyni, Presti til Grundar- og Mødruvalla Kyrkju-safnada í Eyafyrdi.

## Bæn.

Af innsta hjartans grunni prísum vér þig, himneski Fadir, Herra himins og jardar, ad þú — af þinni einskjærri nád — vyrdst hefur ad opinbera oss, þínum smælingjum, þad sem þú duldir fyrir spekíngum veraldar þessarar: hvørsu þú fullu bættir oss aptur, þann skélfiliga sálarskada, sem vér af syndinni bedid høfdum og bedid hefdum enn framar eilífliga, med því móti, ad senda oss þinn elskuligann son Jesum Christ, til lærimeistara og lausnara; svo hvørsu miklum þúnga syndanna, sem vér hladnir erum, getum vér þó hjá hønum, ef ver ydrandi, trúadir og betrunar-

gjarnir til hans komum, fnndid eina fullkomna já eina eilífa endurnæríngu sálum vorum. Ad vísu, himneski Fadir! þenna allra dýrmætasta sannleika þóknadist þér ad opinbera oss, midt í því ad margir í heiminum fyr og síd — já margir á veraldarvísu hálærdir og upplýstir — ei hafa svo luckuligir ordid ad þeckja hann rettiliga, svo þad, sem þeim ætlad var til uppreisnar, er þeim til falls ordid, en þad þó alleinesta sökum þess, ad þeir ei hafa viliad koma til þíns sonar, edur taka á móti hønum med því sinnislagi sem ber, hvørsvegna hann hefur ei kunnad ad opinbera þeim þennann sannleika, er engínn opinberad fær, nema hann einnsaman.

O! þessi sannleikur er oss svo dýrmætur, ad vér reiknum alla hluti, øll heimsins gjædi, já lífid sjálft, hjá hønum þreck ad vera, hann er vor einasti styrkur í freistíngunum, vor einasta huggun í mannráunum, og vort einasta lífat kéri í daudanum. Send oss nú, himneski fadir! þinn heilaga anda, til ad skygnast enn eitt sinn, med augum vors innra manns, inni hans helgidóm, svo vor sannfæríng um hann verdi þess rótfastari, vor trú þess fagnadaríyllri og vor Christindómur af gódum verkum þess ávaxtarríkari. Ad vér loksins ødlast mættum trúarinnar og Christinndómsins endalok, sem er eilíft líf: þína nádargjøf í þinum syni Jesu Christo.

Bænheyr oss, fyrir hans sakir. Amen!

Eptirtektaverd eru ord Postulans St. Pauls í pistilinum til Ephes. 2 Cap. þegar hann segir: »Þér erud uppbygdir yfir grundvöll »Postulanna og Spámannanna; Þar »Jesús Christur er sjálfur hinn yppar»sti Hyrníugar-steinn, á hvörjum öll »byggíngin er í eitt samansett, og vex »til heilags musteris í Drottni, uppá »hvörn þér einnig bygdir erud til Guds »íbúdar í audanum.« Í þessum merkiligu ordum er adal meiníng Postulans audskilin! sem er sú: ad forsvara sannleika og gyldi þeirra trúarbragda, sem hann og adrir Postularnir predikudu á þeim dögum. Hann sýnir nefnliga fyrst, hvörsu þaug séu hin sömu, sem í gamla testamentinu af spámönnunum predikud vóru; svo lærdómur kennifédra beggja testamentanna, hafi haft eitt og hid sama höfud, augnamid. Þarnæst sýnir hann, á hvörjum grundvelli, þessi heilögu trúarbrögd í raun og veru bygd séu og hvör ad sé summa, kjarni og kraptur þeirra, nefnliga trúin á Drottinn Jesúm Christum og hlýdnin vid hans lærdóm; hvar fyrir þau í Guds augliti, í sjálfum sér, sén líka sem eitt prídiligt og hátignarfullt musteri, í hvörju einúngis, og hvörgi annarstadar, sá sanni Gud géti af mönnunum verdugliga dýrdkast. Og loksíns sýnir Postulinn í áminstum ordum, hve

ágjætir þeir allir verdi í Guds augum, sem trúarbrögd þessi réttiliga ræki, nefniliga ad Gud hafi eitt érdeilis eptirlæti af þeim, þeirra dýrdi kun og þjónustu; sem Postulinn útmálar undir Guds íbúdar nafni, ad samkíngu ecki ólíkliga tekinni, af þeim sfniliga Guds helgidómi hjá gydíngum, í hvörjum sjálfur Gud bodid hafdi þeirri þjód sig ad dýrdka, og hvar hann qvadst vilja búa hjá þeim og blessa þá. Og sjá! — þetta eru nú þau sömu heilögu trúarbrögd, sem vér ernm svo lucfuligir ad vera uppfræddir í, frá blautu barnsbeini!

En svo sem vér höfum enga fullnóga orsök ad meta vor trúarbrögd hin bestu fyrir þad, ad vér í þeim uppaldir erum, edur ad vorir foreldrar og lérnifedur hafa innrætt þaug hjá oss, (vegna þess, ad þá sömu ástædu gjætum vér eins haft, þó vér uppaldir værum í þeim verstu og villtustu), þessvegna þurfum vér ad leita annarar gyldari, til þess ad trú vor ei bygd verdi á einúngis manuligum, heldur guddómligum grundvelli. Hljótum vér þá ad leita þessarar ástædu, ecki einasta útvortis, í annara manna kénníngum og skrifum, heldur innvortis med sjálfum oss, í vorri egin sálu. Veldur þad því, ad skaparinn hefur innplantad nockud þad hjá öllum oss, sem óyggjanliga birtir frá honum komid ad vera, sem er höfundur veru vorrar; þad er **skynsemi** vor, edur þeckíng sú,

sem vér höfum um sjálfann Gud, af náttúru ljósinu, nær það er glædt í osß, fyrir útvortis uppfrædíngu. Eg segi glædt; því enda þó tilefni og sædi þess liggi fyrir í sálu vorri, mundi það samt ei uppkoma né qviknad géta, nema ad því bláfid væri af ødrum, fyrir úppmentunína; og þó mundi sú útvortis tilraun ad uppkveikja það hjá osß, ad engu haldi koma, nema þetta sædi sjálft lægi ádur hulid fyrir hjørtum vorum. Nú segi eg, ad í þessu skynsemdar ljósi voru réttbrúkudu, sjum vér allir Gud, edur veru þá, sem hlýtur ad vera høfundur allra hluta; og þessi Gud, sjáum vér undir eins, hlýtur ad vera sá allra máttigasti, en þar hjá sá allra vísasti, gjædskurikasti og réttlátasti. Þessvegna gétum vér svo ályktad: ad sérhvør þau trúarbrøgd í heiminum, sem osß, í ljósi vorrar skynsemi, sýnast osß sambjódi best og allra verdugust séu Guds veru og eginligleikum, ad svo miklu leiti vér med skynsemi vorri faúm þá best þeckta, hin sømu hljóta þá undir eins ad vera hin bestu, heilsgustu, Gudi þocknan ligustu, og sjálfum osß hin allra uppbyggiligustu. Nú stend eg á því, ad trúarbrøgd þau, sem Jesus og Poular hanns kenndu heiminum, og um hvør Postulinn Paulus talar í upphafliga framfærdum ordum, seu þvílík. En — brædur

mínir! Það er annað að segja, og annað að sanna.

Þessvegna vil eg, í Guðs nafni, út af orðum þess gamla Simeons, í voru heilaga Evangelio, í hvörjum hann segir að: Jesús — vorra trúarbragða höfundur — sé settur til falls og upprisu margra í Israel — sökum þess um hans trúarbrögð verður svo ýmisliga dæmt í heiminum — taka mér tilefni að tála um:

náttúru Jesú trúarbragða;

hvörsu hún, í öllu tilliti, samstemmi best Guðs náttúru eptir hanns veru og eginligleikum.

O! að hann, sem er Faðir ljósanna, bæði þess ljóss, sem innvortis er í skynsemi vorri, og hins, sem útvortis er fyrir oss, í sjálfs um þeim opinberaða sannleika, láti sér þóknast, að leiða oss með sínum anda til síns ljóss, svo vér læra mættum fyrst að þeckja hann-réttiliga, og síðan að dýrka hann verðugliga, eptir hanns egin sonar Jesú Christi kénníngu, og í krapti hans forþénustu. Amen!

Hvílík að náttura Jesú trúarbragða sé, mætti þeim að vísu öllum fullkunnigt vera, sem upp — fæddir og — fræddir eru midt í þessum sömu helögu trúarbrögðum; en náttúru þeirra er.þó svoleiðis varið, að engum þeim, sem í þeim uppmentaðir eru, — og þó aldrei svo lærðir séu — er hún í verunni fullkunnig og þeckt, nema hún sjálf, nefniliga náttura Jesú

trúarbragda, sé ordin þeim sömu ad nát-
túru; þad sanna eg af ordum sjálfs stiptara
þessara trúarbragda, nefnil: vors Jesú, hjá
Joh: i 7 Cap. nær hann segir: Ef sá er nock-
ur, sem gjöra vill Guds vilja, hann
reynir hvört þessi lærdómur er af
Gudi, eda hvört eg tala af sjálfum
mér.

Engu ad sídur kann þó skynsemin ein-
ber, svo mikid ad skilja, hvört þau betri edur
lakari, guddóminum verdugri edur óverdugri
séu, enn önnur trúarbrögd, sem til eru í heim-
inum; og ad ransaka þetta, er svo háleit
skylda mannligrar skynsemi, ad þeim öllum, sem
brúka hana, til ad ransaka allt annad í veröl-
dunni, en *láta* þad einasta óransakad og ópró-
fad, sem heyrir til trúarbrögdum þeirra, þeim
má heita ad skynsemin sé til skammar. Þad er
allt eins og ef einn skólapilltur vildi hugsast í
allt annad, enn þad, sem hanns lærimeistari
kéndi hönum, hvarfyrir hann aldrei gjæti fram-
förum tekid í því, sem hönum mest áridi, jafn-
vel hann á sumhvörju ödru hefdi tækilíga þeck-
íngu, sem væri teikn annadhvört til heimskulig-
ustu stoltheita, ad hann þóktist jafn vís sínum
lærimeistara, og þessvegna ei þurfa hans upp-
mentunar vid, ellegar eins ónáttúrligs vidbjóds
og leida, á þeim vísindum, er hönum mættu ad
mesta sóma og lucku verda. En svo er þó þessu

háttad, fyrir mjøg mørgum þeirra, sem á þessum døgum heita skulu lærisveinar Jesu; hvad allir þeir í raun og sannleika vera ættu, sem stýrdir eru til hanns trúarbragda, og ecki heldur hafa opinberliga afneitad þeim sømu.

Þessvegna, svo ver — ad minsta kosti í þetta sinn — verdum ei sannir ad sök þeirri, viljum vér, sem eg ádur hefi gjørdt ráð fyrir, skoda nátturu Jesú trúarbragda, í því tilliti, hvørsu þau best samstemmi guddómsins beckstu eginlegleikum, og· séu þeim verdug. Nú vitum vér ad eginlegleikar Guds eru fyrst: Audligleiki, Einíng og Eilífd hans, er líka sem hvíla í hans guddómlign veru; þarnæst hans Almætti, Alvitska og Allstadarnálægd, med hvørjum hann verkar út frá sinni veru, á sképnum þeim, sem hann framleidir edur framleidt hefur; og loksins hans Vísdómur, Gjæðska og Réttlæti, er, eptir vorum mannliga talshætti, kallast hans sidferdisligu eginlegleikar, og undir einu nafni nefnist Guds Heilagleiki. En nú er óransakanligleiki Guds veru svo stór — því hann býr i því ljósi, segir ritníngin, sem enginn gétur tilkomist — ad vér eicki vel álykta kunnum, hvad sambjódi og verdugt sé þeim fyrst tøldu Guds eginlegleikum, nefniliga eníngu hans, eilífd, almætti og alvitsku, nema ad svo miklu leiti, sem vér sjáum þad samstemma þeim sídast tøldu eginlig-

leikum, nefniliga visdómi hans gjæðsku og réttlæti, hverra eptirmind hann sérdeilis inn plantad hefur náttúru vorri, eptir því sem hann í upphafi tilbjó hana. Hvar af flýtur, ad allt það, sem ver í tilliti Guds gétum med skynsemi vorri fundid ad sambjódi og verdugt se hans stragt áminstu eginlegleikum, nefniliga Visdómi, Gjæðsku og Rettlæti, það sama megum vér eflaust trúa, ad samstemir ad ollu leiti og svo hinum fyrri, enda þó ver ecki, med vorri ófullkomnu skynsemi, gétum svo grundad það og skilid, sem hitt. Því svo sem einn Guds eginlegleiki, gétur ecki verid hinum ødrum hans eginlegleikum mótstrídandi, svo flýtur þaraf, ad allt hvad verdugliga kann ad þeinkjast og trúast, ad samsvari og verdugt sé einum þeirrar það vissuliga samstemir þá, og er verdugt þeim øllum; og þar um megum vér alldeilis fullvissir vera. Kemur það af því, ad eginlegleikar Guds eru í rauninni, ecki annad, enn hans egin vera; svo hvad vér ímindum oss um þá, sem frá henni og sín á milli adgreinda, rís einúngis af vanmætti vors ímindunarkraptar, þegar skynsemi vor vill skignast inní afgrunn guddómligrar veru. Þarfyrir hafa Gudsorda-lærendur í þessu tilliti réttiliga sagt: ad allt hvad sí gudi er, sé Gud sjálfur. Ut af þessu leidir það, ad þegar vér skoda viljum: hvort Jesu trúarbragda náttúra samsvari og sé

verdug Guds egin náttúru, ad svo miklu leiti ver hana þeckt gétum, þá gjörist oss ei þörf á ödru, enn samanbera hana vid þá síd-astnefndu Guds eginligleika, hans Vísdóm, Gjædsku og Réttlæti, og jafnvel ecki nema vid einn einasta þessara, og athuga, hvört hún þeim sama ei fullkomliga samstemmi og fullkomliga verdug sé. Því ef ver finnum ad þeirra náttúra fullkomliga sambýdur einum Guds eginligleika, þurfum vér aldeilis ecki ad ugga, ad hún þá eins fullkomliga sambýdur og samstemmir og svo öllum hinum ödrum; svo hjarta vort má þá rósamliga hvíla vid Jesú trúarbragda sannleika, og byggja sína von yfir hanu, bædi í lífi og dauda. Látum oss þá skoda, hvörsu þau samstemmi þessum sídastnefndu Guds eginligleikum, enn þó sérílagi og einkanligast Guds vísdómi, vegna þess ad sá Guds eginligleiki sýnist skildastur skynsemi vorri, og líka sem blasa andsværis á móti henni, hvar fyrir hún heimtar stakliga, ad hönum eckert þad tilleggist, sem móistrídir annad hvört náttúru Guds, edur náttúru hlutanna.

En — í hvörju er þá Guds vísdómur innifalinn? Uppa þetta spursmál viljum vér svara sjálfum oss, med ordum vors barnalærdóms: Guds Vísdómur er í því falinn, ad hann hefur jafnann þann besta tilgáng í sínum áfetníngi, og líka velur

jafnan bestu medøl, til ad koma hønum fram. En hvør er þá Guds tilgángur med oss menniná? Hvør annar, enn sá, ad gjøra oss sannsæla í tímanum, en fullsæla í eilífdinni? Annann betri og sér verdugri tilgáng, gat hann ecki haft med oss, en þennann.

Því jafnvel þó Guds verdi ad sönnu dýrdin af øllum hlutum ad lokunum; þá er þó hans tilgángur hinn fyrsti ecki sá, ad hafa dýrd af ólucku sképna sinna, edur af því ad þurfa ad beita stríds síns hegnanda réttlætis igégn þeim, sökum óhlýdni þeirra. Nú hángir þad svo saman, ad enginn sá gétur ordid fullsæll í hinu ødru lífi, sem ecki var sannsæll í þessu lífi ádur. Því sú tímanliga sannsæla, er sædi og grundvøllur þeirrar eilífu fullsælu; hvarfyrir ad engin sá, sem til lykta sannvesæll verid hefur í þessu lífi, gétur fullsæll ordid hinumegin grafarinnar. En í hvørju er þá hin sanna sæla í þessu lífi innifalin? Er hún innifalin í því, ad vera ríkur, voldugur og géta lifad i vellistíngum, eptir ósk sinni? Sannliga hefdi þá Gud sjed illa fyrir rádi mannsképna sinna. Því allfæstir eru þeir, sem þetta hlotnast gétur. Og hvørsu margir eru þeir í heiminum, hvørra kjør sýnast úumflýanliga hafa hlotid ad verda: fátækt, forsmán, undirþrycking, sjúkdómur edur harmqvæti? Og skyldu þá allir þessir hljóta ad verda, á sinn hátt, eins vesælir í eilífdini?

Munu Jesú trúarbrøgd kénna þad? Segja þaug ecki þvert á móti: sælir eru fátækir! sælir eru harmandi! sælir eru forsmádir! sælir eru ofsóktir! Já þau rádlegia alvarliga: ad stunda ecki eptir ríkdómi; sækjast ecki eptir hávegum; já skipa med berum ordum: ad madur drepa skuli alla vellistínga gyrnd, í sinni egin natturu. Hvad þá? Þókti þá vorum Jesú audæfi, metord og vellistir ofgód handa sínum trúarjátendum? Þókti hønum mátuligt fyrir þá, ad lifa í armódi, undirþrickingu og allslags eymdakjørum? Kjærri var þad hønum, sem elskar sína trúada, þúsundsinnum meir, enn nockur besti fadir sín børn; já elskadi sig eittsinn til dauda þeirra vegna — vegna allra manna. A hvørju mun þá þessi hans ályktan og upphvatníng bygd? sannliga á því, samqvæmast og verdegast er vísdómi Guds, edur hans besta tilgángi med oss mennina. Nú er Guds tilgángur sá, sem eg ádur sagt hefi, ad vér skulum her í lífi sannsælir verda. En svo er máli varid, ad þessi útvortis svokølludu gjædi: audur, metord og vellistíngar, géta sett og optast setja hina stærstu hindrun í veginn fyrir oss, ad géta þeirrar sønnu sælu adnotid. En aptur á móti, er mótlæti lífs þessa opt ágjætt styrktar medal til ad koma oss til ad sækja eptir þeirri sønnu og réttkølludu sælu. Jesús hefur og aldrei sagt né ként, ad ríkir og voldugir menn í heimi þessum, gjætu

ecki undir eins sannsælir verid; en hitt hefur hann sagt, ad þad mjøg torsókt og sságjætt væri; já svo torsókt: sem útfaldanum ad gánga ség. num nálaraugad. En' fólk sem lifir í vellistíng. um, edur gengur eptir sínum holdligu gyrndum, segja Jesu trúarbrøgd berliga, ad aldeilis ecki geti undir eins sannsælar manneskjur verid. Því slíkt er ødúngis mótstandi náttúru þeirrar sønnu sælu. Aptur á móti, hvør sem hefur þann hugarstyrk, ad hann midt í audlegd og metordum er sigurigur Jesú trúarbragda rækjari, og lætur hvørki ágyrnd, drambsemi né holdligar vellistingar verda sinn afgud, hann sami er Jesú ástkjær og sannur lærisveirn, sem nockur annar. Sé hann med eins Joseps, eins Jobs, eins Daniels, eins Nicodemi og annara slíkra sinni, svo finnur hann mikla nád hjá Gudi, engu minni, enn sá sátæki og foraktadi, med sama hugarfari.

Því þad sýnist, sem hann í ljósi láti stærri merki síns trúskapar vid Jesúm, enn þessi, sem hann á vissann hátt, hefur á móti meir: tælandi freistíngum, enn hinn, ad strída. Þad var stærri dygd og stærri trygd vid Gud sinn, sem Josep Jakobsson sýndi, í því ad vardveita sig frá vellist, ágyrnd og hofmód, þegar hann mátti øllu ráda í Potiphars herbergjum og Pharaonis høllu, heldur enn þó hann væri audmjúkur og rádvandur, medan hann var í mansali og myrk-

vaſtofu. Jobs rádvendni, rettvíſi, bindindi og mannelſka voru ennú ſtærri og þýngri í vigtina, medan hann lífdi í velſtandi ſínu, heldur enn eptir þad hann miſt hafdi allt þad, er gat freiſtad hans til ad láta af dygdum ſeſsum. Því eptir því ſem einn á vid fleiri, ſterkari og ſlægari óvini ad berjaſt, er ſigurvinníng hans ad koſtuligri. Þó er ei hérmed neitad, ad ſá mótlætti hafi og ſvo viſſar freiſtíngar ad varaſt, ſem hinn medlætti er frí fyrir, í hverjum hann meinsliga hrafad géti, ſem þeſſi, og ordid ólukkaligur. Hverſvegna þad á ei heldur eptir Jeſú trúarbrøgdum ſvo adſkiljaſt, ad hin ſanna ſæla ſé frá ørbyrgd, forſmán, undirþrickíngu og ſjúkdómum ódadſkiljanlig, edur ad þeir ſéu allir ſannſælir, er ſlíkum kjørum í heiminum ſæta hljóta; ſjærri því! Þegar einn er fátækur ſøkum leti ſinnar og óſpilunar; forſmádur vegna klækja ſinna og órádvendnis; undirþricktur vegna oſſtopa ſíns og óróa; ſjúkur vegna óhófs ſíns og bílífis, þá er ſlíkur einn eins andſtiggiligur í himinſins ſem heimſins augum; eins fjarlægur þeirri ſønnu ſælu, ſem fylgir Jeſú trúarbrøgdum, ſem þeirri følſku, er útvortis lukkukjør géta í tje látid. Nej, allt er komid undir ordſøkum hans volædis, og áſtandi hans hugafars midt í volædinu. Tildæmis: ſé einn fátækur, fyrir þad hann ecki hefur viljad brúka neina adra atferd enn þá ſamvitſkubeſtu í heiminum, til

að efla sina líkamligu lucku; eður søkum þess, að hann út af sønnum kjærleika og heiðrun við Jesú trúarbrøgð, hefur offrað góssi sínu til gudligrar brúkunar; -é einn forsmáður fyrir það hann lifa vill svo guðligu og ráðvøndu líferni, að hann vill ei dansa eptir heimsins pípu, heldur strángt fylgja Jesú siðalærdómi; se einn ofsóktur, undirþrícktur og hatadur fyrir það hann vandlætir gégn hinu vonda í verøldunni, að hann vill setja hindranir i vegin fyrir ránglæti þeirra ógudligu, en stríða fyrir Jesú ríkis útbreiðslu, sem hans sannur undirsáti og stríðsmaður, nú vel! allir þvílíkir, þeir eru þeir sannsælu á jørðunni, því andi dýrðarinnar og Guðs andi hvílist yfir þeim, segir Petur. Þetta kénna oss Jesú trúarbrøgð skýlausliga. Og — hvørsu samkvæmt er ecki þetta vísdómi Guðs! Því — skyldi hann ecki heldst unna þeim sælu, sem best stunda eptir hans dýrð? skyldi hann ecki gjøra þá luckuliga í andanum, sem ofurselja sína líkamligu lucku, hønum til heiðurs, í heiminum? Já víst! hann lætur þá græda þúsund meira, enn þeir tapa. Þeir tapa heimsins gengi og kannské mannanna vináttu, en øðlast aptur himneskt gjæði og Guðs velþóknun. Hvør ein niðurlægíng fyrir heiminum, er þeim upphafníng fyrir Gudi; og þess meir þeir verða lastaðir og hataðir af vondum mønnum, þess framar verða þeir heiðraðir og elskaðir af Gudi

og hans heil. Englum. Og hefi eg nú nærfeldt með berum orðum svarað því — sem einhvør kannské vildi eptirspyrja — í hvørju sú sanna sæla, sem Guð vill að menn her í lífi hreppi, falin sé? Hún er falin í því: að maður sé innvortis í samvitsku sinni sannfærður um Guðs náð og vináttu.

Hægt er að íminda sér, enda þeim, sem þó hefur enn nú ekki svo lukkuligur orðið, að njóta sælu þessarar, að ímindа sér, segi eg, hve stór lukka það sé, að hafa hlutdeild í henni. Hvað gétur dýrmætara verið, enn að hafa Guð fyrir vin; að vera forlíktur við þann, sem loksins dæma mun allar manneskjur, eptir þeirra verðskuldun? Að géta með gleði hugsað til ódauðligleika sinnar sálar, af því maður er fullviss um í hjarta sínu, að hann hæfur er til að njóta fullsælu í eilífdinni, sökum þess hann finnur sæði sælu þeirrar í sínum innra manni. En nú er spursmál: hvørnig gétur maður þessa innvortis fullvissu og sannfæríngu öðlast? hvørnig gétur hann fyrir víst vitað, að hann sé í Guðs náð og vináttu? svar: með því hann trúliga kappkosti að fylgja Jesú trúarbrögðum. Nefniliga: að hann kappkosti fyrst af öllu að laga sitt sinnislag og hugferði, eptir fyrirskrift Jesú Evangelii; að hann læri af Jesú, svovel dæmi sem kénníngum, at leita Guðs dýrðar yfir allt fram;

læri ad afneita sjálfum sér og sínum náttúrligum girndum, ad svo mikln leiti þær mótstrídá andanum, edur þeim evangaliska þeinkíngarhætti; læri ad leita síns náúnga sanna besta í øllum greinum, og einkanliga kapps um kosti, ad efla hans andligu velferd; læri ad fyrigéfa sínum mótstødumønnumm, ad øllu því leiti, sem ecki skérdir Guds dýrd, edur hindrar þeirra forbetrun. Nær hann nú hefur þessar listir lærdt í Jesú skóla, og elskan til Jesúm, ecki einúngis sem lærimeistara, heldur eirnig sem lausnara og medalgángara, knýr mann til ad setja þær í dagliga æfíngu, verdur hann í sálu sinni sannfærdur um, ad hann sé í Guds nád og vináttu, og fyrir þad sama verdur hann hluttakandi þeirrar sønnu sælu. Þannig sjáum vér nú, ad Jesú trúarbrøgd samstemma í tilliti tilgángs þeirra og augnamids Guds vísdómi, og eru hønum í hærsta máta verdug. Því þar sem tilgángur Guds vísdóms var sá fyrst, ad gjøra oss sannsæla hér í tímanum, hlaut sæla sú, ef hún sønn heita skyldi, ad vera sem líkust Guds egin sælu, ad svo miklu leiti sem skéd gétur, í þessu ófullkomna lífi. En nú er Guds sæla í því falinn, ad hann elskar þad góda, og leitast vid ad útbreida þad medal sképna sinna, svo ad allar þær sem hafa vilja og vit á móti því ad taka, géti í því hluttakandi ordid. Og þessarar sømu tegundar og edlis er

skela sú, sem Gud, eptir Jesú trúarbrøgdum, vill ad mannesk<br>jurnar verdi njótandi hér í þessu lífi; hvør undireins gèfur þeim einslags rétt til ad verda fullkomminnar sælu erfíngjar í eilífdinni.

Nú er þad þá svoleidis sýndt, ad náttura Jesú trúarbragda samstemmi Guds vísdómi í tilliti tilgángs þeirra, sem er mannanna farsæld, bædi í þessu og eptirkomanda lífi; en þá er því nærst spursmálsverdt, hvert ad medøl þau og aferd sú, sem eptir þeirra undirlagi og rádleggíngu, brúkast verdur til ad ná þessum tilgángi og augnamidi, samstemmi líka svo Guds vísdómi? En ádur enn hér uppá svarast, ber ad gjæta þess, ad þad eru ecki einarsta þau medøl og atferd, sem Jesú trúarbrøgd rádleggja siálfum mønnunum ad brúka, til ad ná þessum tilgángi, er, í søgdu tilliti skodunarverd eru, heldur ogsvo þad medal og sú aferd, sem siálfur Gud, ad vitni Jesú, brúkadi til ad koma í verk þessum sínum ásetníngi, ad gjøra menninna farsæla, eg meina endurlausn mannkyns síns. Endurlausn mannkynsins, segi eg; hvør í siálfri sér inniheldur einn mannligri skynsemi ógégnumþreingjandi leyndardóm, og hefur þessvegna af henni, í margra ímindum, opt verid, sem mó stridilig Guds eginligleikum. En hvørsu dárliga mótmælir skynsemin þar útí siálfri sér, hvør í ødru ordinu lætst vidurkénna Guds veru óransakanligleika, en vill þó adra stundina setja

ſig til dómara yfir því, hvad Guddóminum ſé verdugt ad leifa ſér ad gjøra, edur ecki ad gjøra. Eins og ſá ſem kéndi þennann lærdóm, ecki væri trúanligur fyrir því ſem hann kéndi; og ad hann annadhvørt af hreckjum eda fávitſku hefdi ødruvíſi kéndt í þeſſu atridi, um Guddóminn, enn Guddóminum ſjálfum verdugt væri. Hann, meina eg, ſliptari vorra trúarbragda: Jeſus Chriſtus; um hvørn enginn gétur þó neitad, ad allur hans ſidalærdómur, og allt hans líferni, var í hærſta máta ſambjódandi og verdugur Guddómſins heilagleika, og hvør ed ſamlagdi í økum hlutum, þær óhrekjanliguſtu røkſemdir fyrir því, ad hann kappkoſtadi ad koma því til vegar, ad Gud yrdi á allra verdugaſta hátt tilbrdkadur af mønnunum, og þeir mættu, fyrir þad ſama, til þeirrar ſonnu farſældar komiſt géta. Ad hann ſkuli þó í þeſſu vigtugaſta atridi, hvad trúna ſnertir á ſjálfann hann, ſem endurlauſnara og medalgángara, hafa kéndt falſkann lærdóm, og þannig lagt veſta grundvøll til beſtu byggíngar, byggt þann Gudi verdugaſta ſannleika yfir þá Gudi óverduguſtu lýgi; hvøllk óſkynſamliguſtu mótmæli drýgir mannlig ſkynſemi gégn ſjálfri ſér, þegar hún uppáſtendur þetta, edur vogaſt til ad láta þad á ſér heyra! Já, hún gjørir ecki ad eins ſjálfri ſér minkun og ſkømm, med þvílíkri dárligri álýktun, heldur gjørir hún ſjálfann Jéſúm

ad þeim argasta lygara, Guðsspottara og Kin-
heilagasta villumanni, sem jørdin nockrusinni borid
hefur. Ecki nóg hér med; hún gjørir þá ædstu
veru, Gud sjálfann, ad lygara, sem framberi
þau skadligustu tvímæli, á hvørjum einfaldar
manneskjur villst géta, sér sjálfum til ólucku.
Gud — sem er sjálfur sannleikurinn, sem hatar
alla lýgara og alla lýgi, og fyrirbodid hefir monn-
unum, undir tapun sinnar nádar, ad ljúga, edur
bera falskann vitnisburd; ad hann, segi eg, skyldi
hafa svo hátídliga í ljósi látid, med tveimur
opinberunum af himni, yfir Jesú, annari vid
Jordan og annari á Thabor, ad hann heldi þá
allra fullkomnustu velþóknum á Jesú persónu, og
þessvegna líka svo á hans verkum og kenníngum,
og upphvatt því undir eins mannkynnid til ad
hlýda hønum; ad hann, segi eg enn, skyldi þetta
gjørt hafa, ef Jesús kennt hefdi heiminum lýgi,
í tilliti sinnar persónu og áformudu endurlausnar.
Já, enn nú framar lét sér þócknast ad styrkja og
sanna Jesú lærdóms og kenninga inníhald, med
þeim kraptaverkum, er hann leifdi hønum ad
gjøra, og hvør enginn neitad gat, ad hann gjørdi;
svo óvinir hans høfdu engin sunnur rád, ad setja
ógyldis blett uppá þau í alþýdunar augum, enn
med því ad eigna þau einum Contract, er Jesús
skyldi hafa inngengid vid høfdíngja hinna vondu
anda. En þá dárumensku og vitlausu íllýdi, sem
Jesús fann sig orsakadann ad forsvara sjálfann

djøfullnn fyrir, móti sakar áburdi gydínganna, þeim nefniliga: ad hann med kraptaverkum mundi vilja styrkja þann lærdóm, sem væri hønum hinn gagnstædasti og hans ríki mest til nidurdreps, þá sønnu dárligu og meir enn djøfulligu svíksemi; hafa þó mótmælendur Jesú trúarlærdóms ecki skyrrst vid ad eigna sjálfum Gudi — þeirri ædstu og bestu veru. — þegar þeir neita því: ad Jesús sé Gud edur Gudsson, og ad Jesús hafi, med dauda sínum, forlíkad fyrir syndir mannkynsins, þar þó Gud vitnadi sjálfur, sem ádur er sagt, med kraptaverksligri opinberun og raustu af himni, ad Jesú lærdómur væri sér þóknanligur, og þar ad auki gaf Jesú krapt, til ad gjøra ótal yfirnátturlig verk, til ad sanna sinn lærdóm med, og Jesús aptur sínum Postulum. Svo sjáum vér þá hér af, hvørsu mannlig skynsemi, þegar hún ei heldur sér innann sinna takmarka, en lætur stjórnast af stolti og ílgyrni, verdur ad ørgustu dármensku, svo hún álýktar þvert á móti sjálfri sér, sér til skammar bædi fyrir Gudi og mønnum.

Nú hefi eg sagt, ad **medal** þad, sem Gud brúkadi til ad leggja grundvøll mannanna farsældar, í tíma og eilífd, var **Endurlausnarverkid**, skéd fyrir Jesú pínu og dauda; hvørt ad þessvegna er svo sem máttarstólpi Jesú trúarbragda, ad hvørjum feldum, heila byggíngin fellur um koll og verdur sem ad einu rústarbæli; og allir þeir, sem undir þessari byggíngu hafa sér

hæfis leitad, verda ólucfuligir og fortapaff. En ad medal þetta, sovel sem augnamidid sjálft, er þad verka átti, hafi Gudi verdugt verid, þarf eckert annad til ad sanna, nema þad: ad sjálfur Guddómurinn bar svo merkiliga umsorgun fyrir, ad því trúad yrdi af mønnunum, hvørjum þad sendt var; því hér finnur sú sama røksemd stad, sem eg ádur sett hefi, ad hvad verdugt og samkvæmt er einum Guds eiginligleika hlýtur verdugt ad vera og samkvæmt þeim øllum. Þessvegna svo sem Gud kann þad verdugt sér, ad sjá almætti sitt til ad styrkja Endurlausnarlærdómsins innleidslu í heiminn, svo hlýtur þá Endurlausnar-verkid sjálft, sem skédi med Jesú fridþægíngar dauda á krossinum fyrir veraldarinnar syndir, ad vera í hærsta máta verdugt øllum Guds guddómligu eginligleikum, og þar fyrir af sjálfum honum áqvardad og tilsett mannkyninu til besta. Ja, samkvæmt og verdugt var þad vísdómi Guds, ad uppfinna þad rád til mannanna uppreisnar, sem yfirgengi allann manna og Engla skilníng; hvørt þessvegna verdur vísdómi hans því framar til dýrdar, sem þad er skyn eminni meir til forundrunar. Samkvæmt og verdugt var þad gjædsku Guds, sem vill allra sinna sképna velferd, ad hann ei mundi spara þad medal til ad láta, sem hann vissi og sá, ad, rétt brúkad, þénad gjæti oss Adamsbørnum til ad ná aptur þeirri tøpudu luku kyns vors; hvørt

gjædsku hans verdur því framar til dýrdar, sem það er mannkynninu meir til farsældar. Samkvæmt og verdugt var það réttlæti Guds, ad láta medal vorrar endurlausnar vera þeirrar náttúru, ad það syndt gjæti, svovel Einglum sem mönnum, ad Gud lidi ecki sin bodord nockurri sinni skèpnu straffslaust yfirtrodinn, til þess ad Einglar skyldu, svovel sem menn, taka sér vara fyrir, ad syndga, í oftrausti hans nádar; hvört og verdur réttlæti hans því framar til dýrdar, sem það er skèpnum hans meir til vidvörunar. Já — eg efast ecki um, ad þessi atferd Guds, ad taka Adamskyn til nádar, med því ad láta sinn egin son gjöra sínu réttlætti, med hans pínu og dauda, fullnægju í vorn stad, hefur verid þeim ein uþ aptrhalds orsök, frá því ad falla í frá hans hlýdni, þar þeir sjá af dæmi þessu, ad Gud fyrirgéfur engri skèpnu, sem syndgar hönum á móti, medalslaust; heldur ad hans guddómligu réttlæti hlýtur fullnægt ad verda, annadhvört med straffi þess sama, sem syndgadi, eins og skéd er vid brædur þeirra, hina föllnu Eingla, edur þá annarar eins persónu, í þess syndganda stad, eins og sjálfur Jesús Christus var, hvörs ver mennirnir adnotid höfum. Svo þessi adferd Guds, ad taka til nádar syndugt mannkyn, umgyrdir í voldugasta máta hans herradæmi, réttlæti og lögmál; eins og hún aptur, frá vorum sjónarpúnti skodud, er til allrá stærsta

heidurs og hrósunar vísdómi hans og gæsku. Engu ad sídur er þessi atferd Guds og máli ordin eirn ásteitíngar steirn mørgum sjervitríngi veraldar þessarar, er sett hefur sig á dómstól holdligrar skynsemi, og dæmt hana Guds náttúru og eiginligleikum óverduga, Guds augnamidi óþarfa og mannanna gagnsemi óuytsamliga; já, dæmt Jesúm aptur ad nýu ómakligann þeirrar æru, sem Gud gaf hønum; dæmt hann frá øllum hans guddómliga verdugleika og tign, frá sínu medalgaungu embætti og dómara mindugleika yfir øllum heims þjódum; og hefur kannig spá hins gamla Simeons á þeim rætst, ad honn ordinn er þeim, þvert á móti sinni náttúru, til falls og fordjørfunar; hvad sannast mun best, þegar hann í tráss vid alla sína heimugligu og opinberu fjandmenn, setjast mún á dómstólinn í skýum himins, til ad dæma allar heimsins ættkvíslir med réttvísi.

Svo hefi eg þá sýndt, hvørsu medal þad og atferd, sem Gud, frá sinni hálfu til, brúkadi ad ná augnamidi síns vísdóms, í því ad leida mannkynid til farsældar, er hønum í hæsta máta verdugt; en hvad nú lídur medølum þeim og atferd, sem Gud fengid hefur mønnunum í hendur og rádlagt þeim ad brúka, svo þeir sanna sælu í þessum heimi, en fulla sælu í ødrum hreppa mætti, hvørt þau medøl, nefniliga ad því leiti Jesú trúarbrøgd innihalda þau, eru þá, eins sem

hin, sem Gud sjálfur brúkadi, samkvæm og verdug eginligleikum hans og hátign. Þarnm gétum vér ad vísu sannfærst best, af sømu høfudástædu, sem um allt annad, er Jesú trúarbrøgd innihalda; ad þar sem hann sjálfur rádlagdi medal þessi, á hvørn Gud líka sem þrickt hafdi sitt egit innsigli, med med þeim kraptaverkagáfum, sem hann hafdi, Jesús Christus meina eg, hvørs gjørvøll ord og athafnir, vóru sem tveir samhljóda vottar, uppá hans guddómligu sendíngu og mindugleika, ad þar sem hann, segi eg, rádlagdi þau, þá hljóta þau hans rád ad vera eins gild, góð og Gudi verdug, sem allt annad er hann gjørdi og taladi. Því ef ver trúum því, ad þad séu Kóngsins ord, sem einn kóngligur embættismadur — sem frambísar sitt embættisbréf undir Kóngsins nafni og innsigli — opinberar oss í Kóngsins umbodi, hvørsu miklu framar skulum vér þá trúa Jesú Christo, þeim Guddómsins fullmektuga, hvørn hann sendi til vor, ad opinbera oss sinn vilja, og hvør ed hafdi þad skýrteini fyrir sig ad bera, sem ómøguligt er ad forfalsa og eptirgjøra, eins og bréfum jardneskra Kónga, og þad, ad vitni sjálfra hans óvina, gégnum Nicodemi munn, er sagdi: ver vitum, ad þú ert einn Læri-meistari af Gudi kominn, því enginn gétur gjørdt þau verk, sem þú gjørir, nema Gud sé med hønum. En fyrir útan þessa kroptugustu høfudástædu uppá gildi medala

þessara, sem Jesú trúarbrøgð bædi meddeila oss og rádleggja ad brúka, til ad verka vora sønnu og eilífu farsæld, kunnum ver ogsvo ønnur røk, eptir skynsemi vorri, þar til ad leida. En ádurenn eg framfæri þau, vil eg á nafn nefna medølin sjálf, er Jesú trúarbrøgd rádleggja oss til þessa augnamids. Eru þau hin sømu, er ver almenniliga køllum nádarmedøl, og vor barnalærdómur telur þessi: Gudsord, Bænin og Sakramentin. Ad þad sé nú verdugt Gudi, ad hafa meddeildt oss slíkum medølum, til læknsíngar vorum andliga sjúkdómi syndinni, svo ver af henni í sál og samvitsku heilbrigdir verdum, fyrir hans augum, og hæfir til allra gódra verka, er audskilid: fyrst af medalanna almenniligleika, og þarnæst af þeirra náttúru í sjálfum sér; því skyldi Jesús hafa rádlagt oss þau medøl, sem voru torfengin, dýrkeypt og vandafull ad brúka, hvørsu var þad ósamkvæmt Guds almenniliga kjærleika, sem vill ad allir menn verdi sáluhólpnir og komist til sannleikans vidurkénníngar? Hefdu þau ei gétad fengist, nema í fylsuum jardar, eins og gull og perlur; ei gétad eignast þau, nema þeir sem hefdu ríkir verid og haft nóg fyrir ad géfa; og loksins ei gétad brúkad þau, nema lærdir menn og spekíngar — hvørsu illa hefdi þá mesti partur mannkynsins staddur verid, sem skortir þeess útvortis herligheit, til ad efla med slíka jardneska luckú. Ney,

eins og þar er engiun manngreinarmunur í Guðs augliti, á annann hátt, svo það heitir svo: að þar sé hvörki gyðíngur né grikkur, þræll né frelsíngi, kall né kona, heldur allir sem einn maður í Christo; eins eru meðölin, sem Guð hefur gefið oss til að efla vora andligu farsæld með, þau eru heutug fyrir allann aldur, sérhvört kyn, öll stönd og sérhvör kjör manna. Eins sá fásróðasti, ef hann annars heilvita er, sem spekíngurinn; eins fátæklíngurinn, sem sá allra auðigasti; eins vanmáttugasti, sem sá hraustasti; eins þrællinn, sem Kóngurinn, þessir kunna allir jafnt, að færa sér, ef vilja, þessi meðöl í nyt, og gjöra sig andliga sannsæla, af brúkun þeirra. Sá gamli-Simeon og sú háalsdraða Anna, gátu eins vel færdt þau sér til nota, sem hvör annar Israels maður á þeirra dögum; og þau gjörðu það líka trúliga. Já þessi blessuðu meðöl eru svo handhæg, að þó öll önnur meðöl, til líkamans útvortis luckn bresti, eður ei brúkuð verði, ge'a þessi á sinn hátt aldrei brostið þann, sem þau gyrnist að brúka, og ætíð brúkast af þeim, sem þau ecki brestur. Þau eru allstaðar að fá, eins í kotinu sem kóngshöllini, eins í fángelsinu sem frelsisstaðnum, eins í heimahúsum, sem í kirkjunni. Þar á ofan verður þeim aldrei frá oss rænt af nockrum óvinum, hvað mektugir og slægir sem vera kunna. Gull og silfur, auð og ríkidæmi, föt og fæði, heilsu og krapta, já

lífid sjálft, þetta kunnum vér allt ad missa, og margur missir þad fyr og sdruvís enn hann vildi; en Guds nádarmedslum fær enginn svipt oss, svo framarliga vér sjálfir þeim halda viljum, og svo framarliga, sem vér höfum þau nockurntíma réttiliga sdlast. Til dæmis: hvör gétur rænt oss Gudsordi? Já ad vísu, kynnu allar Gudsordabækur frá oss ad takast; Ritníngin sjálf — sú besta og heilagasta bók, sem heimurinn á — kynni oss líka ad bannast; en hvör gétur samt rænt oss því Gudsordi, sem vér numid höfum og í minni fest? svo lengi sem lífid ecki tapast, svo lengi gétur þessi séssjódur sálar vorrar aldrei heldur tapast. Hvör gétur rænt oss bæninni? hvör gétur fyrirmunad oss ad bidja Gud og vorn frelsara? Málid gétum vér mist; túnguna má oss úr munni skéra; en samt höfum vér eptir þad besta verkfæri bænarinnar: hjartad! svo lengi þad slær, svo lengi rænan ecki yfirgéfur oss, svo lengi kunnum vér ad fremja þessa heilögustu ydju.

Vér erum skyrdir; hvör gétur rænt oss vorum skýrnar rétti? hvör gétur slítid þad heilaga sattmáls band millum Guds og vor? Þad gétur enginn, alls enginn, nema sjálfir vér. Gud er vor Gud og forlíktur fadir í Jesú Christo, hvad sem ad heimur og helvíti segir. Vort festibref fyrir himnaríki er geimt í voru hjarta, svo lengi sem hjartad geimir trúna á Jesúm, vonina og kjærleikann. En — Jesú kvöldmáltídar sakra-

menti kunnum vér ad sönnu hid ytra ad sviptast. En hvad um þad? Þá innvortis trúar nautn þarf os samt aldrei ad bresta. Svo lengi sem vér med lifandi trú trúum á Jesúm, etum vér hans hold og dreckum hans blód, á andligann hátt. Enginn útvortis makt kann ad hindra Jesúm frá ad halda kvöldverd med sálu vorri í hjarta voru; þar getum vér smackad hvad sætur og ljúfur hann er, og dryckjast af velljstínga straumum hans nádar. Nú svosem almenniligleiki þessara Guds nádarmedala, bevíssar þad hvörsu sambodinn þau séu Guds náttúru, sem fyrir útan sinn sérliga kjærleika til sinna trúadra, hefur einn almenniligann kjærleika til allra manna, svo bevísar einnig sjálf innvortis náttúra þessara medala hid sama. Því hvílíkt er Gudsord? væri þad ecki annad enn ein daud og kraptlaus frædi, sem ad eins uppfylti skilníng vorn og minni nöfnum smindunum, eins og öll önnur mannlig vísi indi gjöra, til hvörs væri oss þad þá? Þá væri þad víst ei sambodid medal Guds visdómi, til ad efla heill vora. Sökum þess þad er ecki nóg fyrir oss í andligum efnum, ad skilníngur vor upplýsist; viljin verdur ogsvo ad beigjast og lagast eptir Guds vilja. En til þess höfum vér ecki krapta af sjálfum oss. Fyrir þá skuld gaf Gud oss í ordi sínu þad medal, hvört, midt í því þad uppmentar skilníng vorn, leitast undir eins vid ad snúa vilja vorum til þess sem þad rædur

oss; já og undir eins meddeilir oss þeim kraptum, er vér vidþurfum, til ad framkvæma þad, sem sá gódi vilji, eptir þess rádum, hneigist til ad verka. Þessvegna segir Jesús, ad sín ord, þau séu andi og þau séu líf; og Paulus segir, ad Guds ord sé kraptur Guds til sáluhjálpar, þeim sem því trúa. Sama er um bænina ad segja, í tilliti hennar innvortis náttúru. Hvörsu samkvæmt medal Guds vísdómi er hún ecki? Gud vill ad vér séum sínir vinir, svo hann géti verid vor vinur. Nú er sannur vinskapur (segir einn heidinn madur) þar í falinn: ad vilja og ecki vilja þad sama, sem annar vill. Svo er því háttad í tilliti vors vinskapar vid Gud. Þá hid fyrsta erum ver hans sannir vinir, ef ver viljum þad sama, sem hann; elskum þad sama, sem hann; hötum þad sama, sem hann. En hvörnig séum ver ordid Gudi svo lyndislíkir? Tökum ver ecki helst upp sidu þeirra, sem ver umgaungunst med? Og — er oss ecki þeirra umgengni kjærust, hvörra þeinkíngar háttur er líkastur vorum? áu efa! svo er þad daglig umgengni med Gudi, hid besta medal til ad gjöra oss Gudi lyndislíka. En — hvörnig fáum ver þeirrar umgengni notid? hvörnig — nema fyrir bænina. Því — hvad er bænin? Hún er samtal vid Gud frá vorri hálfu; hún er andsvar vors hjarta til hans, uppá þad sem hann talar vid oss í sínu ordi. Þessvegna er

Þfervegan Gudsorda og bænin þau bestu medøl til ad umgángast med Gudi, og verda hønum lyndislíkir, og svo undireins til ad verda hans sannir vinir. Þegar Gud talar vid oss í sínu ordi, er skømm fyrir oss ad svara hønum ecki med bæninni. Þar fyrir sá sem Gudsord heyrir og les bænarlaus, hann er eins og sá, sem ecki vyrdir Kóng sinn eda Fødur andsvars, þó hann ávarpi hann og til hans tali. Þessvegna er bænræktarleysi alltíd víst teikn kalds hjartalags móti Gudi. Þann sem madur elskar, vill hann umgángast; og vilji hann umgángast hann, vill hann ogsvo vid hann tala. Svo er þá bænin einu gudelskandi hjarta, mesta yndis ydja! Þad finnur sig meir styrkt og endurnært vid eina rétt-skickada bæn, enn vid lánga lestra og predikanir, sem þad heyrir bænarlaust. Kraptur sá í Guds ordi fólginn er, til ad forbetra mannsins sálu, finst hvørki né sæst, nema madur med munni bænarinnar líka sem dragi hann til sín, eins og bíflugurnar sjúga húnángid út af jurtunum. En audvitad er þad, ad bæn sú, er þvílíkt verka skal, má eckert munnflapur vera; hún hlýtur ad hafa eldsins náttúru: vera brennandi, vermandi, lýsandi. Brennandi: af hita eptirlaungunarinnar til þess sem madur ødlast vill; vermandi: af il kjærleikans til Guds og Jesú Christs, fyrir hvørria madur framleggur sitt bænaroffur; lýsandi: af geislum gudligs lífernis, þeim til heidurs, sem

madur væntir bænheyrslunnar frá. Þvílíkar hafa án efa verid bænagjørdir Auunu spákonu, sem ei géck úr musterinu, þjónandi Gudi dag og nótt, med føstum og bænahaldi. Já þvílíkar eru bænagjørdir allra þeirra, hjá hvørjum ad náttúra Jesú trúarbragda, er ordinn ad annari náttúru. Hvad eg nú um Guds-ord og bænina sagt hefi, þad sama gildir og svo um sakramentin, ad þau eru bædi á sinn hátt kraptfærandi medal sálunni. Skýrnin fyrst og fremst, vid sáttmála þess, sem Gud í henni vid oss batt, hvør á hans sídu'stendur í sínu fullu gildi og krapti, eins og þegar vér ný-skýrdir komum frá skýrnar sánum; hvørsvegna hans undangángandi nád er á hvørju augnabliki til reidu, ad verda oss ad einni íbúandi og samverkandi nád, ef vér henni móttøku veita viljum; svo jafnvel þó vér, frá vorri hálfu, rofid høfum sáttmálann vid Gud, eigum vér þó jafnan, svo lengi sáttmáls ødin yfirstendur, apturkvæmt í hans miskunar fadm, fyrir sanna ydrun og endurnýun þess rofna sáttmála; en hvørjir sem í hønum órofnum standa og stadid hafa, þeir geima pant sinnar himnesku arfleifdar í hjarta sér, nefniliga anda Guds og Jesú Christi, sem þeim í skýrninni géfinn var, og sem ber þeim vitni, ad þeir séu børn lífanda Guds. Sama er ad segja um þad heilaga kvøldmáltidar sakramentum; hvílíka himneska styrkíngu færir

það ei anda vorum, ef vér verdugliga tilreiddir til þess gaungum? Þessi sannkallada sálarhátíd, hvílíkum fögnudi fyllir hún ei hjörtu allra aud-mjúkra og andagtugra Jesú bordgésta? Það vita þeir best að segja, sem í þessari himnesku máltíd eiíd hafa af því hulda manna, sem heim-inum gésur líf, og smackad hafa krapt eptirkom-andi aldar. En þó er bænin, sem eg hesi ádur umtalad, nefniliga sú bæn, sem kémur fram af einu ydrandi og trúudu hjarta, sú sem gjörir það, ad þessi útvortis medöl, ordid og sakrament-in, géta oss til nota komid. Því þó einn heyri aldrei og lesi svo mikid Gudsord, fari aldrei svo opt til kyrkju, gángi aldrei svo opt til sakra-mentis, gjöri hann þetta án bænar og ydrunar, verdur hönum það ad engum notum. Hún — bænin — er það, sem setur lísid í allar adrar mannsins andagtaræfíngar; án hennar eru þær ónýtar og dæmast fyrir hræsnislæti og skinhelgi, af Gudi.

Af öllu þessu, sem nú er sagt, sjáum vér þá hvörsu Jesú trúarbrögd eru í öllu tilliti sam-svarandi og verdug Guds eginligleikum, hvörs-vegna vér megum gladir og róligir oss vid þau halda í öllum freistínga stormi, í öllum mótlætis hrídum og í daudans sídasta brimgardi. Látum oss þá gjöra svo! látum heiminn segja hvad hann segja vill! látum Jesúm, hans persónu, hans for-

Þénustu, hans lærdóm og lögmál verda ödrum — já heimsins spekíngum — til falls og fordjörfunar; vér viljum samt kapps um kosta, ad Það verdi oss til uppreisnar; uppreisnar í lífinu móti freistíngum syndanna; uppreisnar í daudanum móti ásrídu örvæntíngarinnar; upprelsnar í dóminum, móti áfelli fordæmíngarinnar. Látum oss sækjast eptir ad gánga í fótspor hinna sönnu rækjara Jesú trúarbragda, af hvörjum vort heilaga Evangelium nefnir tvær merkiligar persónur, nefniliga Þann gamla Simeon og Þá háöldrudu Önnu. Fyrir Það ad hjörtu beggja Þeirra full voru af trúarbragdanna anda og krapti, voru Þau, hvört í sinn stad, sannsælar manneskjur. Hvörsu gladur var Simeon yfir Guds hjálpræði, og hvörsu dansadi rétt hjarta hans af fögnudi, Þegar hann tók Þann únga Jesúm á sína arma; Þegar hann í anda fyrirsá Þá stóru sælu og blessun, er hann heiminum færa mundi, já Þvílíka eina blessun, er ecki einasta tilheyrdi hans fólki Gydíngalýdnum, heldur mundi ogsvo útbreida sig til allra heimsins Þjóda! Vitnisburd Gudsanda um ákvördun sína til eilífs lífs, fann hann í samvitsku sinni, Þar hann vissi sig hafa med trúlyndi Þjónad Gudi sína æfidaga; Þarfyrir girntist hann nú, eins og Þreittur erfidismadar, ad fá hvíld hjá Gudi, eptir sína dagsvinnu; og líka sem leggja sitt mædda höfud í hans miskunarskaut, til ad taka Þar sín sídustu andtauk, til ad skila

hønum ſinni ferdbúnu og fridþreÿandi ſálu. O hvørſu ſætt hlackadi hann til ſinnar burtferdar af heiminum, eins og eitt barn hlackar til ſtórhátídar, edur ein brúdur til ſíns brúdguma tilkomu; já hann óſkadi nú hjartanliga til Guds, ad þeſſi hátídisdagur ſálar ſinnar mætti ſem fyrſt upprenna; ad hann fullkomliga og óhindradur njóta mætti þeſs ſæta fridar, hvørs forſmeck hann nú allareidu fann í ſálu ſinni; ad hann í eilífdinni mætti uppſkéra ávøxt þeſs hjálprædis, hvørt Gud tilreidt hafdi heiminum í perſónu þeſs bleſſada barns, er hann héldt nú á í fadmi ſínum.

Sjáum nú, kjærir brædur, hvørſu ſjálfſt himnarſki er rétt í hjarta þeirra, hvørjum ad Jeſú trúarbragda náttúra er ordin ad annari náttúru! O hvørſu ſannſælar manneſkjur hljóta þá ei Þvíkir ad vera! Þvílíkir — hvørjir ed leggja grundvøll ſinnar ſælu, med því ad brúka ſína vitsmuni, krapta, tíma og tækifæri til ad þjóna ſínum frelſara; þjóna hønum med ſínum anda, fyrir tilbeidſlu hans hátignar; med ſínum munni, fyrir vídfrægíngu hans dýrdar; med ſínum verkum, fyrir hlýdnina vid hans bodord. Þjóna hønum í audmýktinni, vegna ſíns óſullkomleika; í trúnni, vegna hans forþénuſtu; í kjærleikanum, vegna hans miſkunar; og í voninni, vegna hans óbrigdanligu fyrirheita. Þjóna hønum ſtrídandi, móti hans og ſínum óvinum; lídandi, undir hans

og sínum krossi; og bþdandi, eptir launum hans náđar, en ei sinnar verđskuldunar. Þvílíkir Guđs þjónustumenn, eptir Jesú trúarbrøgdum, smacka med Simeone Guđs fridar sætleika í sálu sinni, og sjá med augum trúarinnar Guđs hjálpræđi, sem hann þeim í Jesú Christo tilbúid hefur; í krapti hvørs fridar og í von hvørs hjálpræđis þeir gédhraustir skunda adfram ad takmørkum tímans og eilífdarinnar, og verda því betur sannfærdir, sem þeir lengra adfram komast, um þad: hvørsu ad náttúra Jesú trúarbragda samsvarar Guđs eginnáttúru, en reyna þad loksins fullkomliga í eilífdinni, þegar á sjálfum þeim fullkomliga rætist uppfylling þessa Jesú fyrirheitis: Hvar eg er, þar skal og svo minn þjenari vera — so hann sjái mína dýrd, hvørja minn fadir hefur mér géfid. Hann sjálfur, vor blessadi trúarbragda høfundur, hann Jesús Christus — ljósid heidíngja, heidur Gydínga — unni øllum oss þeirrar sælu njótandi ad verda eilífliga! Amen!

---

Kaupmannahøfn, 1816.
Prentad hjá Þorsteini E. Rangel.